Öreigar og kúgaðar þjóðir heims sameinist!

# Stéttabaráttan



Málgagn Kommúnistaflokks Íslands/Marxista-Lenínista

STÉTTABARÁTTAN
VIKUBLAÐ.
MÁLSVARI
VERKAFÓLKS!

Ársáskrift ............3000kr.
Hálfsársáskrift........1800kr.
Ársfjórðungsáskrift....1000kr.
Baráttuáskrift (gildir fyrir heilt ár)..........5000kr.

27. tölublað | Þriðjudag 16. ágúst | 6. árgangur | Verð kr. 60.

# Sovéska herinn burt úr Tékkóslóvakíu



TEKKNESK ALÞYÐA MOTMÆLIR INNRASARLIÐI VARSJARBANDALAGSINS 21. AGUST 1968.

Samtök herstöðvaandstæðinga hafa nú í fyrsta skipti ákveðið að standa fyrir mótmælastöðu fyrir framan sendiráð Sovetríkjanna i tilefni af því að 9 ár eru liðin frá innrás Varsjárbandalagsríkja í Tékkóslóvakíu. Þá mun 21. ágústnefndin halda innifund á eftir, þar sem verða ræður, upplestur og baráttusöngvar.

Innrásin í Tékkóslóvakíu hafði mikil áhrif á baráttu herstöðvaandstæðinga. Íhaldið hélt því óðara fram að nú yrði að efla NATO og hernaðarvarnir Íslands, svo við yrðum ekki hernumin af rússum. Þessi rosalegi rússagrýlu áróður dróg mjög kjarkinn úr sumu fólki. Fyrir herstöðvaandstæðingum fór svo að þeir þorðu vart að viðurkenna yfirgang og útþenslustefnu Sovét af ótta við að það þýddi aukið ákall á styrkara NATO. Afstaðan til Sovétríkjanna hefur lengi verið feimnismál meðal herstöðvaandstæðinga og "vinstri" hreyfingarinnar. Íhaldið hefur verið svo til einrátt um útlistanir á Sovét og tekið skert mannréttindi og átroðslu gagnvart öðrum ríkjum sem dæmi um sósíalíska kúgun". Enn eru til nokkrir Rússadindlar sem telja Sovétríkin og sjálfa sig sósíalista. Hvernig getur nokkur sósíalisti stutt gagnbyltingu þar sem borgarastéttin hefur náð á sitt vald ríkisvaldinu og nota það til að kúga verkalýðinn heimafyrir og reka heimsvaldasinnaða útþenslupólitík.

Þótt menn hafi ekki þá þekkingu á marxisma að geta greint náið hvað sé sósíalismi og hvað kapítalismi, þá þekkir fólk mun á réttlæti og ranglæti. Í Tékkóslóvakíu 1968, réðust hersveitir nokkurra Varsjárbandalagsríkja inn og steyptu löglega kjörinni ríkisstjórn til að setja þar aðra, er taumgæfari væri sovésku stjórninni. Hermönnum sem í innrásinni voru, var sagt að þeir væru komnir að beiðni alþýðunnar til að verja hana gegn gagnbyltingaröflum og vesturveldunum. En tékknesk alþýða vildi ekkert með "vernd þeirra hafa og mótmæli gegn "verndinni" voru barin niður af hörku. Við innrásina mátti allt eins búast við vopnaðri andstöðu og því var vopnum beitt og fólk skotið. Seinna var táragas og kylfur látið nægja og margir sitja í fangelsi fyrir andstöðu sína. Við Íslendingar þekkjum ekki ósvipaða sögu. Hluti íslenskra ráðamanna svaraði áleitni Bandaríkjanna um herstöðvar hér, með því að biðja um "vernd" gegn Rússum og byltingaröflunum. Hérlendis var ekki um vopnaða andstöðu að ræða og enginn var skotinn, en táragasinu og barsmíðunum fengu menn að kynnast.

Framhald síðu 2.

# Mætum öll í mótmælastöðu við sovéska sendiráðið 21 ág.

Fyrir níu árum, 21. ágúst 1968, réðust hersveitir Varsjárbandalagsins inn í Tékkóslóvakíu og hernámu landið. Enn þann dag í dag er landið hernumið og öll andstaða við innrásarlið Sovétríkjanna og fulltrúa þeirra í valdastöðum, Tékkóslósvakíu er miskunnarlaust brotin á bak aftur.

Tveim áratugum fyrr - árið 1949 - ákvað fámenn klíka íslenskra valdamanna að Ísland skyldi verða aðili að herðnaðar bandalagi auðvaldsríkja, NATO, og tveim árum síðar hreiðruðu hersveitir Bandaríkjanna um sig hér á landi. Í hvorugt skiptið var alþýða viðkomandi lands spurð álits. Hins vegar var hersetumönnum veitt margvísleg aðstaða til að treysta arðrán og yfirráð í viðkomandi löndum. Bæði tékknesk og íslensk alþýða hafa því hliðstæðra hagsmuna að gæta: Að losa sig úr greiðum erlends hervalds.

Í stefnuskrá Samtaka herstöðva andstæðinga, sem samþykkt var á s.l. hausti, er lögð áhersla á alþjóðlegt samhengi herstöðvamálsins. Þar segir orðrétt:

"Baráttan gegn her og herstöðvum, ásamt baráttunni gegn íslenskri Nato-aðild, (er) liður í örlagaríkri viðureign smáþjóða og alþýðu við áleitin stórveldi og voldugar auðstéttir. Samtök herstöðvaandstæðinga líta á störf sín og stefnu sem þátt í víðtækri baráttu gegn heimsvaldasinnuðum hernaðarbandalögum drottnunarstefnu og síauknum vígbúnaði hervelda."

Af þessum sökum telur Miðnefnd samtakanna sér skylt að andmæla erlendri hersetu í Tékkóslóvakíu og lýsa stuðningi sínum við baráttu tékkneskrar alþýðu fyrir fullum mannréttindum.

Samtök herstöðvaandstæðinga vilja hvetja fólk til að sýna samstöðu með þessari frelsisbaráttu, með því að sækja útifund, sem þau munu gangast fyrir sunnudaginn 21. ágúst næst komandi. -

Kjörorð fundarins verða:
- Burt með heri Varsjárbandalagsins úr Tékkóslóvakíu.
- Styðjum frelsisbaráttu Tékka og Slóvaka.
- Burt með hernaðarbandalögin: Ísland úr Nato, herinn burt

Samþykkt einróma á miðnefndar fundi 26. júlí '77.

■■■■■■■■■■■■■■

**Mótmælastaðan verður fyrir framan sendiráð Sovétríkjanna Garðastræti 33 kl. 14⁰⁰. Sunnudaginn 21. ágúst. Vésteinn Ólafsson les ávarp Miðnefndar herstöðvarandstæðinga og afhendir það í sendiráðinu. Stutt ávörp verða auk upplesturs og mótmælasöngva. Fjölmennum í aðgerðirnar.**




Brésneff talar um frið en verkin tala gegn honum.

# Sigur starfsfólks hótel Heklu

Að kvöldi 1. ágúst s.l., lokuðu 30 verkfallsverðir Hotel Heklu við Rauðarástíg í Reykjavík. Undanfarnar vikur atti sér stað launadeila milli starfsfólksins og hótelstýrunnar, sem sér um rekstur hotelsins fyrir Husbyggingasjoð Framsoknarflokksins, sem a hotelhusnæðið. Ætlun hotelstyrunnar var að borga starfsfolkinu eftir Edduhotelasamningunum sem gilda út a landi, en inntak þeirra samninga er að starfsfolk fai 29 % veltu af veitingum og 38% veltu af herbergjum og yrði hlutur hótelstyrunnar mestur. Eftir því sem dugnaður starfsfolksins er meiri, vex groði hotelstyrunnar og húsbyggingar sjoðsins hlutfallslega meira en vinnulaunin. Ekki batnaði stett asamvinnukerfi þetta við það að hotelstýrann skilaði ekki fullnægjandi timaskyrslum yfir vinnustundir sinar. Kjör þeirra sem eru í Felagi starfsfolks i veitinga og gistihusum eru eitthvað betri en þeirra sem vinna eftir Edduhotelasamningunum, sem að Framsoknarflokkurinn a heið urinn af. Af þeirri astæðu vildi starfsfolkið fa greitt eftir töxtum þess felags sem það var i og að auki fa metið til kaups ohoflegt vinnuálag sem það var beitt. Hotelstýrunni og Husbyggingarsjóðnum var ritað bréf, þar sem oskað var eftir leiðrettingum a kjörunum. Svar þessara aðila var að senda uppsagnarbref til starfsfolksins sem taka skyldi gildi 1. agust.

Uppsagnarbrefin voru ológleg að mati F.S.V. þvi fyrirvarinn var aðeins vika. Aðstaða starfsfolksins var erfið, og akváðu þau að efna til blaðamannafundar til að kynna sjonarmið sin. Jafnframt þvi var hafist handa að undirbua frekari aðgerðir og var haft samband við formann F.S.V. með osk um stuðnig ef að til verkfallsaðgerða kæmi. Formaður felagsins sagði að F.S.V. gæti ekki stutt verkfallsaðgerðir, þessi deila væri innan verkahrings Felagsdoms samkvæmt lögum um stéttafelög og vinnudeilur. Þessi félagsdomur er skipaður fulltrúum borgarastéttarinnar að meirihluta og geta liðið mánuðir og jafnvel ár, aður en hann kveður upp urskurð sinn. Þa væri of seint að reyna að standa a retti sinum. Þess vegna var gripið til þeirra aðgerða sem i upphafi er sagt fra, hotelinu var lokað og eigendum þess og hotel styrunni var sent bréf þar sem su ákvörðun var utskyrð. En su lokun stóð aðeins i umþaðbil klukkutima, þa var sest að samningaborði í husakynnum F.S.V. Meginhluti verkfallsvarðanna beið hinsvegar átekta í grend við hotelið, ef að svo skyldi fara að þeirra þyrfti með. En til þess kom ekki, hnuturinn var leistur. Samstaðan sigraði og hotelstýran með framsoknarflokkinn að baki ser gekk að öllum kröfum starfsfólksins.

LEIÐARI:

# Sovéska herinn burt úr Tékkóslóvakíu

21. ágúst næstkomandi eru níu ár liðin frá innrás Sovétríkjanna og fleiri varsjárbandalagsríkja inn í Tékkóslóvakíu, 21. ágúst 1968. Tilgangur innrasarinnar var að rígbinda Tékkóslóvakíu undir kúgunarhæl sovesku heimsvaldastefnunnar. Meðal tékkneskrar alþýðu hafði verið að vaxa fram hreyfing sem krafðist lýðréttinda á borð við ritfrelsi, málfrelsi, prentfrelsi, fundafrelsi o.s.fr., en meginmalið var þó baráttan fyrir raunverulegum sjalfsakvörðunarrétti tékknesku þjóðarinnar. Brésneff-klíkan í Kreml hafði reynt meðal annars með þvingunarsamningum að brjóta á bak aftur þessa framsækna baráttu, en þrátt fyrir allar hótanir og "samninga" helt baráttan áfram. Þegar Kremlverjar sáu að leppar þeirra í Tékkóslóvakíu voru búnir að missa öll áhrif og tekkar stefndu að politísku og efnahagslegu sjálfstæði létu þeir til skarar skríða og ruddust, ásamt fleiri Varsjárbandalagsríkjum, með heri sína inn í landið og hertóku það. Þátttaka annarra en Sovétríkjanna í innrásinni var meira til málamynda og til þess að veita rússunum siðferðislegan stuðning gagnvart almenningsálitinu í heiminum. Með þessari innrás afhjúpuðu Sovétríkin betur en áður heimsvaldasinnað eðli sitt.

Í dag eru Sovétríkin, ásamt bandarisku heimsvaldastefnunni, hættulegasti óvinur heimsins og þess vegna er baráttan gegn þeim mikilvægasta mál sem allir andheimsvaldasinnar verða að snúa sér að. Tékknesk alþýða býr í dag við miskunnarlausa kúgun sovésku heimsvaldastefnunnar og barátta til stuðnings þeim er því mikilvægt verkefni andheimsvaldasinnuðu hreyfingarinnar á Íslandi. Fyrsta skrefið i þessa átt var stigið í fyrra þegar Kommúnistaflokkur Íslands m-l stóð fyrir motmælafundi við sovéska sendiráðið í Reykjavík. Því miður náðist þá ekki full samstaða um aðgerðirnar meðal þeirra sem sýna vildu stuðning. Í vor hófu marxistar-leninistar sem starfa innan samtaka herstöðvaandstæðinga baráttu fyrir því að samtökin, sem tvimælalaust eru lang öflugust samtaka andheimsvaldasinna á Íslandi, í dag, stæðu fyrir kröftugum motmælafundi við sendiráð Sovétríkjanna 21. ágúst í ár. Þessi barátta hefur nú sigrað innan herstöðvaandstæðingahreyfingarinnar, þrátt fyrir andstöðu trotskíista og rússavina innan Alþýðubandalagsins. Þessi sigur er mikilvægur sigur allra sannra andheimsvaldasinna sem berjast jafnt gegn allri heimsvaldastefnu, sama hver beitir henni eða í hvaða mynd hún birtist. Með þessari og áframhaldandi aðgerðum í sömu átt, sýna herstöðvaandsæðingar það svart á hvítu að þeir vilja berjast jafnt gegn sovéskri og bandarískri heimsvaldastefnu. Þeir sýna nú íslenskri alþýðu að stuðningsmenn NATO og bandaríska herstöðva á Íslandi eru hinir raunverulegu fulltrúar erlendrar íhlutunar og kúgunar heimsvaldastefnunnar á Íslandi og gera. þannig að engu þá kenningu sem haldið hefur verið a lofti, að herstöðvaandstæðingar vilji aðeins reka herinn til að geta buið rúm fyrir rússann.

Kommúnistaflokkur Íslands m-l skorar á alla andheimsvaldasinna að flykkjast á baráttufundinn 21. ágúst og sýna þar með í verki stuðning sinn við baráttu tekkneskrar alþýðu og andstöðu gegn sovesku heimsvaldastefnunni og hinni takmarkalausu útþennslustefnu hennar. En við megum ekki láta þar við sitja, heldur verðum við að auka og styrkja þessa baráttu í framtíðinni, bæði með upplysinga- og fræðslustarfi og einnig með beinni baráttu t.d. í formi funda, yfirlýsinga o.s.fr.

FRAM TIL BARÁTTU
SOVÉSKA HERINN BURT ÚR TÉKKÓSLÓVAKÍU!
NIÐUR MEÐ HEIMSVALDASTEFNU SOVÉTRÍKJANNA OG BANDARÍKJANNA!
LIFI FRELSISBARÁTTA TÉKKA OG SLÓVAKA!
ÍSLAND ÚR NATO HERINN BURT!

# Þrándur í Götu bættra kjara

Í Færeyjum, nýlendu Danaveldis, er borgað mun hærra verkkaup heldur en á Íslandi. Þar eru dagvinnutekjur um það bil 40 þús. krónur er hér er hæsti taxti Dagsbrúnar tæpar 25 þús. krónur fyrir 40 stunda vinnuviku. Verðlag er svipað í báðum löndunum. Þetta dæmi sýnir okkur fram a að íslenskir auðmenn græða meira á okkur en stéttarbræður þeirra á færeyjum á Færeiskum verkalýð.

Ástæðan fyrir þvi að islenskum auðmönnum hefur tekist að halda niðri kjörum okkar er sú, að þeir hafa tryggt að baráttuvilja okkar er haldið niðri. Auðmennirnir hafa keypt upp forystu verkalýðshreyfingarinnar, á þann hátt að útvega þeim ótal bitlinga hjá ríki og bæ. Þannig verða lífskjör þessa efsta lags verkalýðsstéttarinnar miklu betri en þeirra verkamanna sem arðrændir eru í atvinnulífinu. Forystumenn verkalýðsins læra betur og betur, eftir því sem kjör þeirra batna og þeir fjarlægjast hinn almenna verkamann, að taka ábyrga afstöðu til greiðslugetu atvinnuveganna, sem eru í eigu eða undir stjórn auðmannanna. Þannig tryggja þessir borgaralegu verkalýðsforingjar stóraukinn gróða auðmönnunum til handa og neyða þannig íslenskan verkalýð til að vinna gegndarlausa yfirvinnu til að sjá sér farborða.

Hið ágæta skipulag sem verkalýðshreyfingin átti sér fyrstu áratugi verkalýðshreyfingarinnar, og byggði á virkni og ákvarðanatöku hins almenna félagsmanns, hafa þessir borgaralegu verkalýðsforingjar drepið niður. Þetta skipulag gerði það að verkum að góðir varnarsigrar unnust þegar auðvaldið réðist af mikilli heift á kjör verkafólks, eins og t.d. á kreppuárunum. Auk þess voru verkamenn skólaðir í þjóðfélagsmálum og byltingarbaráttunni til að afnema ástæðuna fyrir eymdinni og vinnuþrældóminum, sem einkaeign auðvaldsins á atvinnutækjunum orsakar.

En breyting þjóðskipulagsins er fjarri huga þeirra manna sem stjórna verkalýðshreyfingunni í dag. Þeirra takmark er aðeins að fá fleiri bitlinga frá auðvaldinu og ríkisvaldi þess fyrir sig og flokk sinn.

Slíkum mönnum og slíkum flokkum geta íslenskir verkamenn ekki treyst, heldur verður að styðja þá sem hafa það að markmiði að afnema auðvaldsskipulagið. Áfangi á þeirri leið er að gera verkalýðsfélögin að baráttutækjum verkalýðsins í hagsmunabaráttunni og berjast fyrir því að greidd verði lífvænleg laun fyrir 40 stunda vinnuviku.

En til þess að það megi verða verðum við að skipta um forystu í verkalýðshreyfingunni og breyta henni þannig að frumkvæði og baráttuvilji verkafólks fái notið sín. Þess vegna verðum við að byggja upp flokk verkalýðsins, KFÍ. En við verðum ætíð að hafa það hugfast að kjarabaráttan ein mun aldrei leysa vandamál okkar, við verðum að afnema örsök vandamálanna, auðvaldsskipulagið, og byggja upp sósíalískt lýðveldi vinnandi fólks á Íslandi.

# Sumarmót Kommúnistaflokksins

Um verslunarmannahelgina hélt Kommúnistaflokkurinn sitt árlega sumarmót.

Mótin eru opin öllum sem hafa áhuga, en þar gildir að sjáfsögðu vínbann, Þau eru skipulögð þannig að nokkuð af tímanum fer í umræður (venjulega í hópum) annað í íþróttir leiki eða annað sem fólki dettur í hug. Á kvöldin eru svo kvöldvökur.

Að þessu sinni var mótið haldið í Þjórsárdal og tókst vel þrátt fyrir óhagstætt veður. Þau mál sem mótið átti að ræða voru herstöðvamálið og jafnréttismál.

Í umræðunum um herstöðvamálið komu fram mörg mikil væg atriði og ábendingar um brýn verkefni. Meginniðurstaðan varð sú, að það verði að efla virknina meðal herstöðvaandstæðinga svo barátta þeirra verði öflugri. Hverfa og svæða hóparnir eru grundvallar einingar Samtaka Herstöðvaandstæðinga, þar eru meðlimirnir og þar fer starfið fram. Þess vegna verða þeir að vera vakandi og halda uppi námi og umræðu um herstöðvamálið og alþjóðlegt samhengi þess.

það þarf að standa fyrir fjölbreyttu starfi bæði til að kynna málstaðinn og til að þróa sjálfa sig áfram í gegnum baráttuna. Því er það meginverkefni kommúnista að vinna að uppbyggingu og virkni hverfahópanna.

Af jafnréttismálum bar mest á umræðum um jafnrétti kynjanna. Þó var réttilega bent á að fleiri eru misrétti beittir en kvenþjóðin. Voru t.d. öryrkjar, aldraðir og æskufólk nefnt í því sambandi.

Í umræðunum um jafnrétti kynjanna gengu allir út frá því að konur skiptust í stéttir eins og karlar. Þar af leiðandi ættu þær ekki allar sömu hagsmuna að gæta. Það hefur t.d. sýnt sig í sambandi við skattamálin. Þar hafa t.d. Rauðsokkar sett fram þá stefnu að konur eigi að "fá að borga skattinn sinn sjálfar". Þessi stefna gegnur í berhögg við hagsmuni verkafólks þar sem hún þýðir í raun enn frekari skerðingu á tekjum heimilanna. Það sem vantar er raunveruleg barátta eftir kjörorðinu "kvennabarátta er stéttabarátta" Það þarf að berjast gegn þeim hugmyndum sem alltaf skjóta upp kollinum að karlar séu höfuðandstæðingur kvenna. Það þarf að láta af því að berjast fyrir smáatriðum sem engu höfuðmáli skipta og snúa sér að mikilvægari baráttumálum. Í raun og veru eru flest þau mál sem hingað til hafa verið talin sér baráttu mál kvenna, hagsmunamál alls vinnandi fólks. Sem dæmi um þetta má nefna dagvistunarmálið, en það er hagsmunamál alls verkalýðsins þar sem það er forsenda þess að bæði kynin geti aflað heimilinu tekna.

Að endingu ræddu menn um sumarmótin almennt. Þau eru mjög jákvæður liður í starfi flokksins og menn voru á einu máli um það að efla þessa starfsemi. Á mótunum gefst tækifæri til að ræða málin við stærri hóp en venjulega, þar hittist fólk sitt af hvoru landshorninu og skiptist á reynslu og þekkingu. Það hefur mikið gildi hve fjölbreyttur hópur það er sem mótin höfða til þar koma börn og fullorðnir, fjölskyldur og einstaklingar, flokksbundnir og óflokksbundnir. og fá tækifæri til að kynnast og samhæfast í baráttunni.

Framhald af forsíðu

SOVÉTSKI HERINN BURT ÚR TÉKKÓ....

Minnast skulu menn þess. og að Íslendingar hafa setið í fangelsi fyrir andstöðu sína við erlendan her. Ísland og Tékkóslovakía eru álíka sett með það að bæði eru smáríki innan hernaðarbandalaga, og njóta "verndar" þar í formi yfirgangs voldugari "bræðra" i bandalaginu. Íslensk og tékknesk alþýða eiga sameiginlegan óvin, heimsvaldastefnuna. Því er það að við mætum í mótmælastöðuna fyrir framan sovéska sendiráðið 21. ágúst n.k. til þess að krefjast þess að sovéski herinn fari úr Tékkóslovakíu, til þess að krefjast þess að Tekkar fái, eins og við viljum einnig fá, sjálfsákvörðunarrétt þjóðar sinnar til að ráða eigin málum.

21. ágúst-nefndin hefur nú hvatt félaga sína og stuðningsmenn til að mæta í mótmælastöðuna við sendiráðið. Er það fagnaðarefni að samstaða hafi nú tekist um aðgerðir. Viljirðu berjast gegn heimsvaldastefnunni, viljirðu berjast gegn yfirgangi ríkja gagnvart öðrum ríkjum, viljirðu berjast fyrir retti þjoða til að ráða sinum malum sjalfar, þa mætirðu í mótmælastöðuna við soveska sendiráðið 21. ágúst n.k.

VERNDUM SJÁLFSÁKVÖRÐUNARRÉTT ÞJÓÐA
SOVÉSKA HERINN BURT ÚR TÉKKÓSLÓVAKÍU
NIÐUR MEÐ HEIMSVALDASTEFNUNA
GEGN VARSJÁRBANDALAGINU OG NATO

**HVERNIG KEMST ÞÚ Í SAMBAND VIÐ KOMMÚNISTAFLOKK ÍSLANDS/ML?**

Miðstjórn og ritstjórn Stéttabaráttunnar: sími 27810 og pósthólf 1357, 121R. einnig í Rauðu Stjörnunni bókabúð, Lindárgötu 15. Opin mánud. til föstud. kl. 15:00 - 18:30.

Hafnarfjörður: Fjóla Rögnvalds Reykjavíkurvegi 24.

Akureyri: Jón Atli Játvarðsson Hafnarstræti 23.
Snæfellsnes: Sigfús Almarsson Hellisbraut 10, Hellissandi.
Ísafjörður: Kristinn Karlsson Fjarðastræti 7.
Neskaupsstaður: Messíana Tómasdóttir, Þiljuvöllum 38.
Suðurnes: Einar Jónsson Sólvallagötu 40c, Keflavík.

# Úrkynjun Sovétríkjanna

Ferðamenn sem koma til Moskvu í dag verða fljótt varir við hina gífurlegu spillingu sem allsstaðar er. Ýmsar nauðsynja vörur sem almenningur á ekki kost á að afla sér. má auðveldlega útvega fyrir dollara Erlendur ferðamaður sem gengur eftir götu í Moskvuborg er stöðvaður hvað eftir annað og honum boðnar ýmsar vörur í skiptum fyrir tyggigúmí sígarettur eða dollara Í stórverslunum Sovétríkjanna er vöruúrval ótrúlega lítið og sumar smá verslanir hafa oft ekki uppá að bjóða nema innan við tug vörutegunda Í hinu þunglamalega skrifstofubákni fæst ekkert gert nema á eilífðartíma eða fyrir smá aukaþóknun sem hverfur í vasann á einhverjum af skriffinnunum. Læknisþjónusta, sem samkvæmt opinberum heimildum er almenn og ókeypis. er það aðeins að nafninu til en ætlast er til að sjúklingar greiði læknum sínum "gjafir", sem þökk fyrir greiðviknina. Fyrir útlendingum er þetta útskýrt sem rússnesk venja og gagnkvæm greiðvikni Alkahólismi er mikið vandamál, enda mjög útbreiddur og áberandi og sama er að segja um vændi Kaupmismunur er gífurlegur og kemur mikið til fram í fríðindum og mútum, sem háttsettir embættismenn hafa möguleika á í krafti stöðu sinnar að sanka að sér.

### "Frelsið" í Sovétríkjunum

Hvarvetna gefur að líta spillingu, ójafnrétti og mistök. En hvernig stendur þá á því, að í hinum opinberu málgögnum kemur ekkert fram um þetta heldur er öllu lýst eins og um Paradís sjálfa væri að ræða? Hvernig stendur á því, að þeir sem láta í ljós gagnrýni í einkasamtölum treystast ekki til að leggja hana fram opinberlega? Í reynd er það þannig að öll gagnrýni er miskunnarlaust barin niður. Eru þá notaðar hinar ýmsu aðferðir til að losa sig við óþægilega gagnrýni, allt frá hótunum leynilögreglu til vistunar pólitískra andófsmanna á geðveikrahælum og jafnvel "hverfa" einstaklingar. Lögreglan beitir ýmsum aðferðum til að koma í veg fyrir að skipulögð andstaða geti myndast í landinu, gegn því lögregluríki sem þar ríkir. Ákveðnar reglur eru t.d. um það hverjir geti haft aðgang að eða notað fjölritara, ríkið hefur eftirlit með því hversu margir stenslar eru notaðir og getur krafist þess að fá að sjá þá og fá skýrslu um það til hvers þeir hafi verið notaðir. Ennfremur verður að skrá allar ritvélar, því í augum endurskoðunarsinna teljast þær til vopna sem alþýðan gæti notað í baráttu sinni gegn þeim. Nýju Zarirnir í Kreml óttast ekkert fremur en að alþýðan í Sovétríkjunum og hinn byltingarsinnaði verkalýður þar taki að skipuleggja sig í kringum þá kommúnísku hópa og blöð, sem þrátt fyrir hert eftirlit og strangar refsingar fyrir slíkt, hafa komið fram nú að undanförnu. Því er það að allar skipulagðar mótmælaaðgerðir eru bannaðar með lögum og þegar verkamenn hafa ekki séð aðra leið færa en slíkt þá hefur þeim verið mætt með byssustingjum og stríðsdrekum. Þó svo að Sovétríkin hafi á sínum tíma verið ríki verkalýðs og bænda, þar sem öreigastéttin skóp lögin, þá er nú svo komið að forstjórar verksmiðjanna hafa leyfi til að reka verkamenn að eigin geðþótta, en hins vegar hafa verkamenn enga möguleika til að losa sig við forstjórana, hversu mjög sem þeir traðka á réttindum verkamannanna. Jafnvel verkfallsvopnið hefur verið tekið úr höndum hins sovéska verkalýðs.

Þó svo að samkvæmt lögum Sovétríkjanna eigi allir rétt til vinnu þá er í raun og veru um dulið atvinnuleysi að ræða, sem er staðreynd, sem jafnvel sovésk blöð hafa viðurkennt sem vandamál. Er hér um að ræða verkamenn sem af ýmsum ástæðum hafa flosnað upp úr vinnu og enn hafa ekki fengið nýtt starf. Oft er slíkur verkamaður atvinnulaus í um hálft ár

Einna tilfinnanlegastur vöruskortur sem um er að ræða í Sovétríkjunum er skortur á ýmsum fæðutegundum, svo sem kjöti og korni. Samkvæmt útskýringum valdhafanna í Kreml, er árlegur uppskerubrestur sem ber mesta ábyrgð á þessu. Eitthvað er nú farið áð slá í þá útskýringu þeirra enda hafa þeir gert ráð fyrir áframhaldandi "uppskerubresti" a.m.k. næstu fimm árin. Hafa valdhafarnir orðið að grípa til ýmissa aðgerða til að bægja frá hungursneyð í landinu, m.a. stórfelldra kornkaupa frá Bandaríkjunum. en gerður hefur verið samningur um áframhaldandi innflutning á korni þaðan næstu fimm árin. Sérstaklega hefur þó kjötskorturinn orðið tilfinnanlegur og hefur verið tekin upp sú aðferð að einn til tvo daga í viku er kjöt gersamlega ófáanlegt í búðum sem og veitingahúsum, ef það var þá á boðstólum hina dag daga vikunnar, en ósjaldan bregst það að það sé yfirleitt til.

### Hergagnaiðnaðurinn í Sovét.

Hvernig skyldi standa á því að sovéskur landbúnaður hefur ekkert þróast undanfarna áratugi og virðist jafnvel fara hrakandi? Þó svo að í tímaritum frá Sovétríkjunum gefi að líta glæsilegar landbúnaðarvélar við störf þá segir það ekki nema hálfa söguna, og það er langt frá því að landbúnaður í Sovétríkjunum hafi náð þeirri vélvæðingu sem hann hefur t.d. á Vesturlöndum. Það er sláandi að bera saman þá stöðnun sem nú er í þróun sovésks landbúnaðar og þá gífurlegu framþróun sem varð á fyrstu áratugum Sovétlýðveldanna á meðan öreigastéttin hafði ríkisvaldið enn í höndum sínum. En hvernig stendur á því að ríki með einna þróaðasta iðnað veraldar skuli ekki vera fært um að sjá sínum eigin landbúnaði fyrir nægjanlegu magni af landbúnaðarvélum? Að hverju beinist iðnaðarframleiðslan fyrst og fremst? Á undanförnum tuttugu árum hefur iðnaðurinn æ meir verið skipulagður með þarfir herveldis í huga. En í hernaðariðnaðinum verður víst ekki stöðnun, heldur hafa framfarir Sovétríkjanna á því sviði verið svo örar að undanförnu að einna helst má líkja við Þýskaland rétt fyrir seinni heimstyrjöldina. Er nú svo komið að Sovétríkin hafa komist fram úr Bandaríkjunum í sumum greinum vígvélasmíða. Vopnaframleiðslan er nú orðin í slíku magni að þau eru orðin einn stærsti vopnasali veraldar. Beita þau vopnasölunni á sama hátt og Bandaríkin þ.e. til þess að afla sér áhrifasvæða, losa sig við úrelt vopn og standa straum af eigin hervæðingu. Í átökunum milli Eþíópíu og Sómalíu kemur þetta mjög skýrt fram

### Hvað kom fyrir ríki verkalýðsins?

En hvernig stendur á því að í Sovétríkjunum býr fólk nú við ófrelsi, kúgun og skort? Hvernig stendur á því að Sovétríkin eru í dag heimsvaldasinnað herveldi, sem keppir við Bandaríkin um heimsyfirráð, og einna helst má líkja við Hitlers-Þýskaland að því er varðar útþenslustefnu þeirra? Var þetta ekki ríki verkalýðsins, móðurland öreiga heimsins, miðstöð heimsbyltingarinnar?

Til þess að geta gert sér grein fyrir eðli og orsök þeirra breytinga, sem átt hafa sér stað í Sovétríkjunum þurfum við að gera okkur grein fyrir þeim öflum og kröftum sem takast á í sérhverju þjóðfélagi. Marxistar líta svo á að í sérhverju stéttarþjóðfélagi takist á andstæð öfl, sem m.a. komi fram í mótsetningunni milli öreiga og borgara í auðvaldsþjóðfélaginu. Þessi mótsetning svo sem aðrar mótsetningar stéttaþjóðfélaga er í raun endurspeglun grundvallarmótsetningar stéttaþjóðfélagsins, sem er móthverfan milli framleiðsluafstæðna, (með því er m.a. átt við yfirráð, eign og stjórnun framleiðslleiðslutækja) og framleiðsluafla (með því er átt við þau öfl sem standa að framleiðslunni, m.a. vinnan og hvernig hún er framkvæmd). Þetta eru móthverfur undirbyggingar þjóðfélagsins og setja mark sitt á allt líf og starf sem fram fer í þjóðfélaginu.

Þannig er það t.d. hér á Íslandi. Verkamenn starfa að framleiðslunni með ákveðnum tækjum, ákveðinni þekkingu og skila ákveðnum afurðum sem við sjáum í formi þeirra hluta og tækja sem við notum daglega en framleiðsluafstæðurnar eru ákveðandi fyrir það hvernig vinnuaflinu er ráðstafað og hvernig því er beitt, þ.e verkamaðurinn er ekki að vinna fyrir sjálfan sig, heldur er forsenda vinnu hans sú, að hún skapar einhverjum auðherrum gróða. Hætti vinnan að skapa gróða þá er hún tafarlaust stöðvuð í auðvaldsþjóðfélagi. Á þessarri undirbyggingu hvílir svo yfirbygging þjóðfélagsins. Með yfirbyggingu þjóðfélagsins er átt við m.a. ríkisvald og allt það sem því er tengt þ.e. dómstólar, lögregla osfrv. einnig tilheyrir henni fjölmiðlar, listir og bókmenntir osfrv. Móthverfan milli yfirbyggingar og undirbyggingar er önnur grundvallar móthverfa þjóðfélagsins. Yfirbyggingin er og hlýtur ávallt að vera endurspeglun ákveðins raunveruleika í undirbyggingunni. Þannig er það í auðvaldsþjóðfélögum að auðvaldsstéttin sem drottnar yfir framleiðslutækjunum (en framleiðsluafstæður auðvaldsþjóðfélagsins eru einmitt fólgnar í því), drottnar yfir ríkisvaldinu og yfirbyggingunni allri og beitir þessu valdi til að viðhalda kúgun sinni og undirokun á framleiðsluöflunum Því er það að til þess að breyta framleiðsluafstæðunum, til þess að brjóta hlekki sína og varpa af sér kúgun sinni verður verkalýðurinn og hinn vinnandi lýður fyrst af öllu að brjóta niður kúgunartæki borgarastéttarinnar, ríkisvaldið og taka undir sína stjórn yfirbygginguna alla. Í byltingu sinni 1917 gerðu öreigar Rússlands einmitt þetta. Þeir brutu niður hið gamla ríkisvald, komu á ráðstjórn, gerðu listir og áróður arðræningjanna brottrækan en sköpuðu nýja menningu- öreigamenningu Eftir að öreigarnir höfðu tekið völdin í þjóðfélaginu og byggt upp sitt eigið ríkisvald tóku þeir til við að breyta framleiðsluafstæðunum. Í fyrstu settu þeir auðherrana undir verkalýðseftirlit (þ.e. þá sem ekki höfðu flúið land), en tóku svo smám saman yfir framleiðslutækin, komu á stofn samyrkjubúum og afnámu að mestu einkaeign á framleiðslutækjunum. Þessarri þróun var að mestu lokið um miðjan fjórða áratuginn. Vopn og framvarðarsveit öreigalýðsins í þessarri baráttu, þ.e. fyrst gegn hinu borgaralega ríkisvaldi og síðar í umbreytingu þjóðfélagsins, var Kommúnistaflokkurinn.

Í hinu sósíaliskasamfélagi harnar stéttabaráttan til muna. Borgarastéttin reynir á örvæntingarfullan hátt að hrifsa til sín völdin. Í þeirri baráttu beinir hún spjótum sínum helst að flokki verkalýðsins. Þessvegna er nauðsynlegt að samsettning Kommúnistaflokksins sé verkalýðnum í hag., þannig að meirihluti félaga hans sé úr verkalýðsstétt, sem hafa enga aðra hagsmuni enn verkalýðsins.

Samsettning Kommúnista flokks Ráðstjórnarríkjanna sýnir að þessum skilyrðum var fullnægt. (sjá töflu)

Félagafjöldi Kommúnistaflokks Sonétríkjanna ( Bolsevika ) og stettarleg samsetning hans í hundraðshlutum.

| Ár | félagar | verkamennn | bændur | menntamenn. |
|---|---|---|---|---|
| 1918 | 270.000 | 56,9 | 14,5 | 28,6 |
| 1919 | 313.000 | 47,8 | 21,8 | 30,4 |
| 1920 | 612.000 | 43,8 | 25,1 | 31,1 |
| 1921 | 732.000 | 41,0 | 28,2 | 30,8 |
| 1922 | 532.000 | 44,4 | 26,7 | 28,9 |
| 1923 | 485.000 | 44,9 | 25,7 | 29,4 |
| 1924 | 680.000 | 55,4 | 23,0 | 21,6 |
| 1925 | 911.000 | 58,6 | 23,8 | 17,6 |
| 1927 | 1.025.000 | 56,3 | 22,3 | 21,4 |
| 1930 | 1.270.000* | 65,3 | 20,2 | 14,5 |
| 1934 | 1.874.000* | 64,5 | 27,8 | 7,7 |
| 1939 | 1.588.000 | — | — | — |

ath. tölur merktar innihalda bæði félaga og reynslufélaga.

Ef við berum þetta saman við samsvarandi tölur árið 1956 kemur í ljós athyglisverð breyting.

| Fjöldi félaga og og umsækjanda | Þar af í prósentum verkamenn | bændur | menntamenn |
|---|---|---|---|
| 7.215.000 | 32,0 | 17,1 | 50,9 |

Enn þá augljósari verður þessi breyting ef skoðuð er stétta samsetning þingsins.

Stéttaleg samsetning þings Kommúnistaflokks Ráðstjórnarríkjanna.

| Ár | verkamenn | bændur | menntamenn |
|---|---|---|---|
| 1924 | 63,2 | 5,4 | 31,4 |
| 1927 | 71,0 | 5,7 | 23,3 |
| 1930 | 71,2 | 6,7 | 22,1 |
| 1934 | 60,0 | 8,0 | 32,0 |
| 1956 | 18,5 | 13,8 | 67,7 |

Þessa þróun reyndu Krússjoff og hans fylgifiskar að hylma yfir með áróðri um að núna væri hið sovéska skipulag komið inn á tímaskeið kommúnismans og því hefðu allar stéttir og stéttamismunur máðst út en eftir stæði hin sovéska alþýða, Sovétríkin væru nú ríki allrar alþýðu. Þversögnin í þessu er augljós því að ríkið er og getur aldrei verið annað en tæki einnar stéttar til að kúga aðra. Ef stéttamóthverfur mást út og deyja, hlýtur ríkið líka að hverfa. Kenning Krússéffs og kumpána er ekkert annað en klaufaleg en jafnframt örvæntingarfull tilraun til að hylja þá staðreynd að stéttamóthverfur í Sovétríkjunum hafa aldrei verið dýpri en einmitt nú. Það er nefnilega þannig að þó svo að sósíalisma hafi verið komið á í einu landi þá hefur stéttaróvininum, borgarastéttinni alls ekki verið komið fyrir kattarnef endanlega þar með. Borgararnir hafa að vísu verið sviftir völdum sínum og auði, en einmitt þess vegna margfaldast hatur hennar á hinu sósíalíska þjóðskipulagi. Þeir finna sér ótal leiðir til að berjast gegn því.

Reynslan frá Sovétríkjunum sem meðal annars kemur fram í dæmum og töflum hér að framan sem ytri einkenni af þeirri stéttabaráttu sem háð hefur

Framhald á baksíðu



Sovétskar Egypta.




Sovétskir skriðdrekar Sómala

Sovétríkin keppa við Bandaríkin og önnur auðvaldsríki um vopnamarkaðinn Er þá ekki altaf víst að "vinskapurinn" við þá þjóð sem fengu vopnin, endist áður enn þau verða algerlega úrelt.



Öreigar og kúgaðar þjóðir heims sameinist!

# Stéttabaráttan



Útg: Kommúnistaflokkur Íslands m-l.
27. tbl. 6. árg. 16/8. 1977.

STÉTTABARÁTTAN
-kemur út vikulega-
Sími: 27810.
Gíró: 27810-6.

Ábyrgðarm: Sigurður Ingi Andrésson.



# Á að hirða smáfisk?

Einkennileg er umhyggja Matthíasar bóksala og ráðherra fyrir þorskinum í sjónum. Fræg er yfirlýsing hans um svörtu skýrsluna svonefndu á síðasta ári og ekki verður annað sagt en að ýmislegt merkilegt hafi komið frá honum þetta árið. Má þar meðal annars nefna myndina frægu af vestfjarðarþorskinum, sem birtist í Mogga í vor sem leið og hundsun hans á tilmælum Hafrannsóknarstofnunnar um breyttar reglur um lokun veiðisvæða. Verður ekki annað séð af þessu og öðrum frægðarverkum ráðherrans, en að hann búi yfir einhverri dularfullri vísdómsgáfu um ástand þorsks og annarra nytjafiska við Íslandsstrendur. Svo virðist því sem Gunnar Thoroddsen hafi leitað nokkuð langt yfir skammt, er hann fékk til sín hina ameirísku seiðkerlingu til rannsókna í Kröflu í sumar, í stað þess að leita ráða hjá hinum fjölkunnuga sessunaut sínum.

Tilgangur þessarra skrifa minna er þó ekki sá að ræða fjölkynngi Matthíasar, heldur vil ég aðeins ræða nýsetta reglugerð hans um hirðingu smáfiskjar. Samkvæmt henni ber að hirða allan þorsk, ýsu ufsa steinbít, karfa og skarkola sem er undir máli. Skal aflanum landað og andvirðið gert upptækt. Reglugerð þessi lítur óneitanlega vel út á pappírnum og er ekki að efa að eitthvað af þeim atkvæðum Sjálfstæðisflokksins, sem í landi starfa, telja þetta gott dæmi um velvild Matthíasar í garð þorsksins. Ekki eru þó allir sammála honum í þessu efni. Mér er ekki ljóst hvort þetta er bragð hjá piltinum til að styrkja slæman fjárhag Ríkissjóðs, eða hvort hann hefur umpólast svona skyndilega rétt eftir ómerkingu síðustu tilskipunar Hafrannsóknarstofnunnar. Hvort heldur sem nú er, þá mun óhætt að segja að hér hafi hann hlaupið á sig eina ferðina enn. Kemur það víst fáum á óvart eftir allt það sem á undan er gengið í ráðherratíð hans.

Þannig liggur í málinu að fáir, ef nokkrir togarar munu fara eftir þessarri reglugerð Ef svo vill til að undirmálsfiskur slæðist með í trollið, mun hann fara eftir sem áður beint í sjóinn aftur, múkkanum og öðrum sjófuglum til óblandinnar ánægju. Ástæða þess er þó ekki sú að sjómenn vilji ekki hirða smáfiskinn, sem þeir vita manna best að er dauður þegar inn á dekk er komið, heldur er hún í fyrsta lagi sú að hirðing smáfiskjar skapar aukna vinnu í aðgerð án þess að nokkuð komi til góða fyrir mannskapinn. Geta má þess hér að töluverðar umræður hafa farið fram á undanförnum árum meðal sjómanna og útgerðarmanna um nýtingu smáfiskjar og annars úrgangsfiskjar og hefur hjá mörgum verið eindreginn vilji til að hirða hann til dæmis í gúanó, en slíkt hefur verið bannað fram að þessu.

Í öðru lagi má nefna það að ef komið er í land með nokkur tonn af smáfiski er hætta á að viðkomandi sjómenn verði að þola skít og skammir af hálfu þeirra sem ekkert vita um þessi mál, verða jafnvel kallaðir smáfiskamorðingjar og annað í þeim dúr, og litið á þá sem nokkurs konar misindismenn. Svo ekki sé talað um vesalings skipstjórann. Tilhneigingar til þessa er þegar farið að gæta í landi og má sjómannsstarfið orðið ekki við miklu til viðbótar í þá átt til að farið verði að líta á það sem mannskemmandi.

Í þriðja lagi er þetta tap fyrir útgerðina, því ekki trúi ég því að Matthías ætli Ríkissjóði að greiða löndunarkostnaðinn af smáfisknum eða þá ísinn útá þessa titti.

Nú má ekki skilja orð mín sem svo að ég sé andvígur hirðingu smáfiskjar, heldur þvert á móti hef ég lengi verið hlynntur því að allur smáfiskur og úrgangsfiskur sé hirtur og honum landað til vinnslu ef mögulegt er, annars í gúanó. En sú reglugerð sem nú hefur séð dagsins ljós er bara svo fáránlega asnaleg að ekki er hægt að sitja þegjandi undir henni.

Úr því að við erum skikkaðir til að hirða smáfiskinn, er lágmarkskrafa að greitt sé gúanóverð fyrir hann í stað þess að "refsa" útgerð og áhöfn með upptöku hans. Þá kæmist væntanlega betri ástand á þessi mál þ.e. vilji yrði fyrir hendi hjá áhöfnum skipanna til að hirða ruslið, án þess þó að menn sjái sér hag í að liggja á smáfiski. Þá kæmi einnig í ljós raunveruleg aflasamsetning þannig að beita mætti friðunaraðgerðum í samræmi við það. Einnig fengist þá úr því skorið hvor þeirra nafnanna, Matthías bóksali eða Matthías ritstjóri hefur rétt fyrir sér varðandi stærð vestfjarðarþorsksins.

Ritað um borð í togara á Sporðagrunni 1. júlí 1977.



Myndin er af borholurörum, og sést kalkútfellinginn. Með því að blása út þetta vandamál, er reynt að slá riki í augu almennings. En þetta er auvitað ekki vandamálið, heldur hraunrenslið undir svæðinu.

# Tíu milljarða ævintýrið

Eftir þær hörðu deilur og umræður sem fóru fram í vetur um Kröfluvirkjun og framkvæmdirnar þar, hefur verið heldur hljótt um þá hluti um skeið. Enda er þar e.t.v. litlu við að bæta, vélarnar sem geta þjónað 60megavatta virkjun. standa þar enn reiðubúnar og bíða eftir því að kannski komi nú nóg afl upp úr einhverri holunni svo hægt sé að keyra þær. Allt útlit er fyrir að enn sé þess langt að bíða að þær framleiði rafmagn í nokkrum mæli.

Síðan það síaðist loksins inn í hausinn á hæstvirtum iðnaðarráðherra að ekki væri að vænta birtu og yls frá Kröflu í bráð (a.m.k. ekki fyrir næstu kosningar), hefur Iðnaðarráðuneytið unnið leynt og ljóst að því að skella allri skuldinni af ævintýrinu yfir á sérfræðinga Orkustofnunnar, auk þess sem það hefur leitað til annarra sérfræðinga um öflun gufunnar (konan með kassann). Er enn ekki fullljóst í hvoru atriðinu ráðuneytinu hefur orðið meira ágengt.

Hitt er annað mál að 10milljarða fjárfestingin í Kröfluöskjunni er staðreynd, staðreynd sem ekki verður umflúin. Jarðvísindamenn, sem enn teljast þó ráðgefandi aðili við Kröfluvirkjun, hafa aðallega brugðist við þessarri staðreynd á tvennan hátt (auk þess sem þeir hver fyrir sig reyna að þvo vísindaheiður sinn af öllum mistökum sem mögulega hafa verið gerð, eða hægt væri að saka þá um að hafa gert).

Í fyrsta lagi eru þeir, sem gæta þess vandlega að líta algerlega framhjá núverandi ástandi svæðisins. Þ.e. reyna að fá fólk til að "gleyma" því að mikil skjálftavirkni og hræringar á svæðinu gera alla vinnslu á því óörugga svo ekki sé meira sagt. Þeir lýsa vandamálunum við gufuöflunina sem "tæknilegum atriðum", sem öll megi leysa. Þannig stafi minnkandi rennsli í holunum aðeins af kalkútfellingum, sem stífli aðfærsluæðar að holunum eða jafnvel aðeins holurnar sjálfar. Síðan koma tillögur og framkvæmdir í þá átt að reyna að hreinsa til, væntanlega í von um að fá vinnsluhæfar holur. Þeir menn sem tala fyrir slíkum "lausnum" eru eingöngu að reyna (af veikum mætti þó), að slá ryki í augu almennings í landinu. Hafa þeir meira að segja gengið svo langt að fá japanskan kollega sinn til að vitna með sér.

Það er vissulega rétt og þarf varla langt sérfræðingsnám til að skilja það að þegar háhitasvæði eru virkjuð má búast við vandkvæðum í sambandi við útfellingu kalks í holunum. En það eru ekki slíkar stíflur sem valda því að ekki fæst gufa úr borholunum við Kröflu.

Höfuðorsökin eru jarðhræringarnar á svæðinu.

Með því að leggja slíkt ofurkapp á að minnka vandamálin og gæta þess vandlega að minnast ekki áraunverulegar aðstæður er ekki verið að gæta hagsmuna almennings í þessu máli, heldur er eingöngu verið að gefa þeim aðilum gálgafrest, sem tóku ákvarðanirnar um að binda fleiri milljarða í gagnslausri virkjun.

Í öðru lagi eru jarðvísindamenn, sem hafa nú um nokkurn tíma spáð stórgosi á svæðinu. Þeir telja skiljanlega allar frekari framkvæmdir á svæðinu út í hött, tíumilljarðirnir muni aðeins grafast undir hrauni ellegar þeytast upp í loft í sprengigosi hvort sem er.

Því ber ekki að neita að fyrir iðnaðarráðherra væri slíkt stórgos hin heppilegasta leið út úr ógöngunum. Því þá væri auðvelt að nota tækifærið og skella svosem einu söluskattsstigi eða tveimur á herðar almennings, eins og gert var eftir Heimaeyjargosið. Fyrir utan það að ekki þyrti að afnema þetta söluskattstig aftur, fremur en þá. Og svo yrði náttúrlega miklu auðveldara fyrir ráðamenn að bjarga eigin skinni, ef svo gífurlegar náttúruhamfarir kæmu til.

Tíminn einn mun skera úr um hvort þeim félögum Gunnari og Jóni Sólnes verður bjargað með gosi. Þar sem 10 milljörðum af skattfé almennings hefur verið eytt í Kröfluævintýrið ber þessum herrum hins vegar að standa reikningsskil gerða sinna. - Það er lágmarkskrafa.

# Áskriftaherferð

Félagar og aðrir velunnarar Stéttabaráttunnar. Nú hefur Stéttabaráttan komið út vikulega í meira en hálft ár. Á þessu tímabili hefur ekki verið nein skipuleg herferð til að auka útbreiðslu blaðsins. Þesvegna hefur ritnefnd í samráði við aðrar einingar Kommúnistaflokksins, ákveðið að hefja útbreiðslu og áskriftaherferð sem standa mun til loka september.

Takmark okkar er : 200 nýir áskrifendur, og aukning lausasölu um 100 blöð á viku.

Það er óþarfi að hvetja menn til að láta ekki sitt eftir liggja, allir hljóta að sjá hve mikilvægt það er íslenskri verkalýðsstétt og kommúnismanum að eiga góðan málsvara.

Hamarinn mun sýna aukningu lausasölunnar, frá því sem nú er. Sigðin sýnir nýja áskrifendur blaðsins.

Félagar og aðrir velunnarar blaðsins skulu póstsenda nýjar áskriftir til :

Rauðu Stjörnunnar, Lindagötu 15. Rvk. Pósthólf 1357.
Einnig má hringja í síma 27810 milli klukkan 15 og 18 .



Framhald af síðu 3.

## Úrkynjun Sovétríkjanna

verið á undanförnum áratugum í Sovétríkjunum sannar okkur að öreigarnir mega í engu slaka á baráttu sinni gegn borgarastéttinni þó svo að sósíalisma hafi verið komið á.
Á sjötta áratugnum tókst borgarastéttinni í Sovétríkjunum að sölsa til sín völdin í flokki og ríkisvaldi, ná yfirtökunum í yfirbyggingu þjóðfélagsins og með það sem vopn tókst henni að endurreisa hina kapítalísku framleiðsluhætti. Sem afleiðing þessa hefur hið sovéska þjóðfélag gjörbreyst. Verkamenn eru ofurseldir kúgun og arðráni, sovéskt vinnuafl er aftur orðin verslunarvara og sovésk heimsvaldastefna teygir fingur sína til allra heimshorna.